TAGORE

# MÓÐIR OG BARN

GUNNAR DAL
þýddi




BÓKAÚTGÁFA ÆSKUNNAR
1964

## RIT GUNNARS DAL:

Vera, ljóð, 1949
Sfinxinn og hamingjan, ljóð, 1953
Rödd Indlands, 1953
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954
Sfinxinn og hamingjan, 2. útg., 1954
Sókrates, 1957
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958
Októberljóð, 1959
Leitin að aditi, 1961
Tveir heimar, 1961
Líf og dauði, 1961
Hinn hvíti lótus 1962
Yoga, 1962
Sex indversk heimspekikerfi, 1962
Grískir heimspekingar, 1963
Öld Sókratesar, 1963
Varnarræða Sókratesar (form. og þýð.), 1963
Raddir morgunsins, ljóð, 1964
Móðir og barn (þýdd ljóð), 1964

*Bók þessi er gefin út af*
*Bókaútgáfu Æskunnar*
*í tilefni 65 ára afmælis*
*barnablaðsins Æskan,*
*í október 1964.*

PRENTSMIÐJAN ODDI H.F.



*Tagore, eina Nóbelsverðlaunaskáld Austurlanda.*

# Húsið

ALEINN gekk ég veginn yfir akurinn, þar sem sólarlagið faldi síðasta gullið sitt eins og nirfill.

Ljós dagsins sökk dýpra og dýpra inn í rökkrið og landið svipt gróðri sínum var hljótt eins og yfirgefin ekkja.

Skyndilega reis mjóróma rödd sveinbarns til himins. Óséður fór hann gegnum myrkrið og skildi stef söngs síns eftir í kvöldkyrrðinni.

Húsið hans í þorpinu lá út við eyðilandið bak við ekrur sykurreyrsins, hulið í skuggum grannvaxinna pálma og dimmgrænna aldintrjáa.

Ég staldraði við um stund á einmana göngu minni undir heiðum stjörnum og horfði á rökkrið falla yfir jörðina, sem faðmaði að sér ótal heimili með vöggum sínum og hvílum, móðurhjörtum og lömpum kvöldsins, hið unga líf, sem gladdist þeirri gleði, sem veit ekkert um, hvers virði hún er veröldinni.

# Á ströndinni

Á STRÖND hinna mörgu heima hittist hópur barna.

Endalaus himinninn hvílir í djúpri kyrrð yfir þeim og friðlaust hafið gnauðar við fætur þeirra.

Á strönd hinna mörgu heima mætist hópur barna með dansi og söng.

Þau byggja hús sín úr sandi og leika sér að tómum skeljum. Þau flétta skip sín úr visnum blöðum og ýta þeim brosandi út á hafið. Börn eru að leik á strönd hinna mörgu heima.

Þau kunna ekki að synda, þau kunna ekki að kasta neti. Perluveiðarar kafa

eftir perlum, kaupmenn sigla skipum sínum, en börnin safna steinvölum og fleygja þeim aftur um fjöruna. Þau leita ekki að földum fjársjóðum, þau kunna ekki að kasta út neti.

Freyðandi hafið hlær og dauft bros leikur um sandinn. Válegar öldur kveða börnunum óskiljanleg ljóð eins og móðir vaggi sveini. Hafið kætist með börnunum og dauft bros leikur um sandinn.

Á strönd hinna stóru heima hittist hópur barna. Stormur æðir um veglausan himin, skip týnast á áttlausu hafi. Dauðinn er á ferð og börnin leika sér. Á strönd hinna stóru heima er hið mikla stefnumót lítilla barna.

# Hvaðan komstu?

SVEFNINN sem flýgur niður á augu barnsins, — veit nokkur hvaðan hann kemur?

Já, sagnir herma, að hann eigi heima í álfaborginni í skóginum dimma, þar sem ljósbjöllur varpa flöktandi birtu á tvö feimin töfrablóm. Frá þeim kemur svefninn til að kyssa augu barnsins.

Brosið, sem leikur um varir barnsins, þegar það sefur, — veit nokkur hvar það er fætt? Já, sagnir herma, að lítill, fölur geisli hins vaxandi mána hafi snortið hverfandi haustský, og þar fæddist brosið fyrst í draumi hins döggvota morguns

— brosið, sem leikur um varir barnsins, þegar það sefur.

Hin ljúfa, unaðslega fegurð, sem blómgast á limum barnsins, — veit nokkur, hvar hún duldist? Já, hún hvíldi í þögulum leyndardómi ástarinnar, sem gagntók hjarta móðurinnar á morgni lífsins — þessi ljúfa unaðslega fegurð, sem blómgast á limum barnsins.

# Litla barnið

EF BARNIÐ aðeins vildi, gæti það flogið til himins á þessari stundu.

En barnið veit sínu viti og yfirgefur okkur ekki. Sælt hvílir það við brjóst móður sinnar og má ekki af henni sjá.

Og barnið kann ótal vísdómsorð, sem fáir í þessum heimi geta skilið. Það er ekki að ófyrirsynju, að barnið hefur enga löngun til að tala.

Hið eina sem það þráir er að læra orð móðurinnar af vörum hennar. Þess vegna er það svona saklaust á svip.

Barnið átti dýran sjóð af gulli og perlum, en samt kom það eins og betlari

inn í þennan heim. Barnið veit, hvers vegna það kom í þessum dularklæðum.

Þessi yndislegi litli nakti betlari lætur sem hann sé hjálparvana, svo að hann geti beðið um ríkulega ást móður sinnar.

Litla barnið var svo óháð öllum fjötrum í landi hins litla vaxandi mána.

En það vissi sínu viti, þegar það fórnaði frelsi sínu. Það veit, að í litlum afkima í hjarta móðurinnar er rúm fyrir takmarkalausa gleði, og að vera faðmaður og vafinn mjúkum örmum er unaðslegra en frelsið.

Litla barnið þurfti aldrei að gráta. Það bjó í landi hinnar fullkomnu hamingju.

En það vissi, hvað það gerði, þegar það ákvað að fella tár.

Þótt bros hins litla ljúfa andlits dragi til sín hjarta móðurinnar, tengir þó grátur þess yfir stundarhryggð móður og barn tvöföldum böndum umhyggju og ástar.

# Hátíðasýning

HVER er það, sem hefur litað þennan litla kyrtil, barnið mitt, og hefur klætt þig í þessa litlu rauðu skikkju?

Þú komst út í morgun til þess að leika þér í varpanum, vaggandi og valtur í spori.

En hver er það, sem hefur litað þennan litla kyrtil, barnið mitt?

Hvað er það, sem hlægir þig, litli vinur?

Móðir þín brosir til þín úr dyrunum. Hún klappar saman höndunum og það hringlar í sylgjum hennar, og þú dansar með bambusstaf í hendi eins og svolítill hirðingi.

En hvað er það, sem hlægir þig, litli vin?

Ó, þú litli betlari, um hvað biður þú, þegar þú vefur báðum höndum um háls móður þinnar?

Ó, svanga litla hjartað mitt, á ég að færa þér heiminn eins og ávöxt af himnum til að leggja hann í fallega litla lófann þinn?

Betlarinn minn litli, um hvað biður þú?

Vindurinn ber kátan bjölluhljóminn frá fótum þínum.

Sólin brosir, þegar þú ert færður í fötin.

Himinninn vakir yfir þér, þegar þú sefur í örmum móður þinnar, og morgunninn læðist á tánum að hvílu þinni og kyssir þig á augun.

Og með vindinum berst kliður þinna kátu bjallna.

Álfadrottning draumsins kemur til þín fljúgandi af rökkvuðum himni.

Móðir jarðar tekur sér sæti við hlið þér í hjarta móður þinnar.

Hann, sem leikur fyrir stjörnurnar,

stendur við gluggann þinn með hljóð-
pípu sína.

Og álfadrottning draumsins flýgur til þín af rökkvuðum himni.

# Svalan

HVER hefur stolið svefninum af augum barnsins? Það verð ég að vita.

Með leirker á lendum sér gekk móðirin til að sækja vatn í þorpið.

Það var hádegi. Barnið var hætt leik sínum. Endurnar á tjörninni þögðu.

Hjarðsveinninn lá sofandi í skugga banyan-trésins.

Tranan stóð hátignarleg og hljóð í feninu við mangólundinn.

Þá kom svefnræninginn og tók svefninn af augum barnsins og hraðaði sér í burtu.

Þegar móðirin kom heim, fann hún litla barnið skríðandi á fjórum fótum um húsið.

Hvar er svalan, sem stal svefninum af augum barnsins? Það verð ég að vita. Ég verð að finna hana og læsa hana inni.

Ég verð að leita í fylgsnum gljúfrabúans, þar sem áin hríslast um flúðir og dökka steina. Ég verð að leita í höfgum skuggum bakúlalundarins, þar sem dúfur kurra í hreiðrum sínum og bjöllur álfanna klingja í kyrrð stirndra nátta.

Í kvöld ætla ég að leita í hvíslandi þögn bambusskógarins, þar sem eldflugurnar láta ljós sitt skína, og ég ætla að spyrja hverja veru, sem ég hitti: „Getur nokkur sagt mér, hvar svalan býr?“

Hver stal svefninum af augum litla barnsins? Ég verð að vita það.

Henni skyldi ég launa lambið gráa, ef ég bara gæti náð henni.

Ég skyldi ráðast á hreiður hennar og komast að, hvar hún geymir allan svefninn, sem hún hefur stolið.

Ég skyldi ræna því öllu og fara með heim.

Ég skyldi reyra saman vængi hennar, varpa henni niður á bakka fljótsins og láta hana dorga fiska milli sefsins og vatnaliljanna.

Þegar önn dagsins er lokið og þorpsbörnin sitja í skauti mæðra sinna, þá munu fuglar næturinnar væla háðslega í eyru hennar:

„Hvers svefni ætlar þú nú að stela?“

# Upphafið

„HVAÐAN hef ég komið, hvar hefur þú fundið mig?“ spurði litla barnið móður sína.

Hún þrýsti barninu að brjósti sér og svaraði grátandi og hlæjandi í senn: „Þú varst falinn í hjarta mínu sem innsta þrá þess, vinur minn.

Þú varst í brúðum bernskuleikja minna; og þegar ég á hverjum morgni mótaði mynd guðs míns í leir, þá mótaði ég þig aftur og aftur.

Þú duldist í heimilisguði okkar, og þegar ég tilbað hann, tilbað ég þig.

Í hverri von minni, í allri ást minni,

í lífi mínu og í lífi móður minnar hefur þú lifað.

Í skauti hins eilífa anda, sem ríkir yfir húsi okkar, varst þú alinn um aldir.

Þegar ég var ung mær og blóm hjarta míns opnaðist, þá varst þú ilmur þess.

Hin ljúfa mýkt þín varð til í styrkleika æsku minnar eins og morgunroði á himni fyrir sólris.

Þú fyrsti ástmögur himinsins og bróðir dögunarinnar, þú hefur borizt með straumi allífsins og að lokum hefur þú staðnæmzt í hjarta mínu.

Ég lít í andlit þitt og fæ ekki skilið undrið; þú, sem tilheyrðir öllu, ert orðinn minn. Af ótta við að missa þig þrýsti ég þér fast að brjósti mínu. Hvaða töfrar hafa heillað dýrð heimsins í mína veiku arma?“

# Veröld barnsins

ÉG VILDI óska, að ég gæti eignazt ofurlitla hlutdeild í hinni sönnu veröld barnsins.

Ég veit, að í henni eru stjörnur, sem tala til þess, og himinn, sem beygir sig niður að andliti þess til að gleðja það með kátlegum skýjum sínum og regnbogum.

Þeir, sem látast vera mállausir og líta út eins og þeir geti ekki hreyft sig, læðast að glugga barnsins og segja því sögur sínar og færa því bakka fulla af dýrlegum gullum.

Ég vildi ég gæti ferðazt eftir veginum,

sem liggur í gegnum hugarlönd barnsins og áfram yfir allar hindranir.

Þar sem sendiboðar hlaupa í erindisleysi milli ríkja konunga, sem eiga sér enga sögu;

þar sem skynsemin býr til flugdreka úr lögum sínum og lætur þau fljúga og sannleikurinn leysir staðreyndina úr fjötrum.

# Hvers vegna?

ÞEGAR ég færi þér marglit leikföng, barnið mitt, skil ég, hvers vegna öll þessi litadýrð leikur um skýin og vatnið og hvers vegna blómin eru svona litrík — þegar ég gef þér marglit leikföng, barnið mitt.

Þegar ég syng, svo að þú getir dansað, þá skilst mér fyrst hvers vegna laufið syngur á trjánum og hvers vegna hljómkviða hafsins syngur sig inn í þögult hjarta jarðarinnar — þegar ég syng, svo að þú getir dansað, barnið mitt.

Þegar ég legg sætindi í útréttan lófa þinn, veit ég, hvers vegna hunang er í

bikar blómsins og hvers vegna sætleika er laumað í ávöxtinn — þegar ég legg sætindi í útréttan lófa þinn.

Þegar ég kyssi andlit þitt, til þess að þú brosir, yndið mitt, skil ég fyrst þann fögnuð, sem streymir af himni með morgunroðanum, og þá gleði, sem sumarblærinn færir líkama mínum — þegar ég kyssi þig, til þess að þú brosir.

# Rógur

HVERS vegna eru þessi tár í augum þínum, barnið mitt? Er það ekki skammarlegt, að þeir skuli alltaf vera að álasa þér fyrir ekki neitt!

Þú hefur óhreinkað hendur þínar og andlit með bleki við að skrifa — er það næg ástæða til að kalla þig sóða?

O, svei þeim! Mundu þeir dirfast að kalla mánann sóða, þótt hann hefði atað andlit sitt bleki?

Þeir ávíta þig fyrir alls konar smámuni, barnið mitt. Þeir finna að við þig út af bókstaflega engu.

Þú reifst klæði þín, þegar þú varst að

leika þér — er það næg ástæða til að kalla þig trassa?

O, svei þeim! Hvað vilja þeir kalla haustmorgun, sem brosir gegnum rysjótt ský?

Hlustaðu ekki á hvað þeir segja, barnið mitt. Þeir semja langan lista yfir brek þín.

Allir vita, hve góð þér finnast sætindi — en er það næg ástæða til að kalla þig sælkera?

O, svei þeim! Hvað munu þeir þá kalla okkur, sem elskum þig?

# Dómarinn

SEGIÐ um hann, hvað sem ykkur sýnist, ég þekki galla barnsins míns.

Ég elska hann ekki, af því að hann er góður, heldur af því að hann er litla barnið mitt.

Hvernig ættuð þið að vita, hve yndislegur hann getur verið, þegar þið reynið að vega kosti hans og galla?

Þegar ég verð að refsa honum, verður hann enn nátengdari lífi mínu.

Þegar hann grætur vegna mín, grætur hjarta mitt með honum.

Ég ein hef rétt til að ávíta og refsa, því að þeim einum leyfist að aga, sem elskar.

# Barnagull

BARNIÐ mitt, gleði þín er fullkomin, þar sem þú situr þarna í rykinu og leikur þér allan morguninn að brotinni grein.

Ég brosi að leik þínum við þessa brotnu grein.

Ég athuga reikninga mína og legg saman tölur.

Ef til vill lítur þú til mín hornauga og hugsar: „Heimskulegur leikur að fara svona með tíma sinn.“

Barnið mitt, ég hef gleymt þeirri list að heillast af sprekum og leir.

Ég vel mér dýr leikföng og safna silfri og gulli.

Allt sem þú sérð verður þér ævintýri — en ég bruðla bæði tíma mínum og kröftum í leit að því, sem ég aldrei finn.

Á lekum knerri sigli ég úfin höf og gleymi, að einnig líf mitt er ekkert nema leikur.

# Stjörnufræðingurinn

ÉG SAGÐI aðeins: „Þegar fullur máni hangir fastur á greinum kadamtrésins þarna, er þá ekki hægt að ná honum?“

En stóri bróðir hló að mér og sagði: „Litli anginn minn, þú ert það heimskasta barn, sem ég hef nokkurn tíma þekkt. Máninn er óralangt frá okkur, hvernig ætti nokkur að geta náð honum?“

Ég sagði: „Stóri bróðir, vertu ekki með nein kjánalæti! Mundir þú segja að mamma væri langt í burtu þegar hún brosir til okkar út um gluggann?“

En stóri bróðir sagði samt: „Þú ert einfalt barn! Eða hvar ætlarðu að finna nógu stórt net til að veiða í mánann?"

Ég sagði að það væri vandalaust að taka hann með höndunum.

En stóri bróðir hló og sagði: „Þú ert það heimskasta barn, sem ég hef þekkt. Ef máninn kæmi nær, mundir þú sjá hvað hann er stór."

Ég sagði: „Stóri bróðir, þetta er áreiðanlega einhver vitleysan sem þeir kenna ykkur í skólanum! Þegar mamma lýtur niður til að kyssa okkur, sýnist þér þá andlit hennar vera mjög stórt?"

En stóri bróðir sagði enn: „Þú ert heimskt barn."

# Ský og öldur

MÓÐIR, fólkið, sem býr uppi í skýjunum, kallar til mín: „Við leikum okkur allan guðslangan daginn.

Við förum í leik við morgunroðann og silfurtunglið."

Ég spyr: „En hvernig get ég komizt upp til ykkar?"

Það svarar: „Gakktu á heimsenda, lyftu höndum þínum til himins og við munum bera þig upp til skýja."

„Móðir mín bíður mín heima," segi ég, „hvernig get ég farið frá henni?"

Þá brosir það og svífur burt.

En ég kann betri leik, móðir.

Ég er skýið, en þú máninn.
Ég fel þig með báðum höndum og þakið á húsinu okkar höfum við fyrir himin.
Fólkið sem býr í öldunum kallar til mín:
„Við syngjum frá morgni til kvölds; við höldum lengra og lengra og vitum ekki, hvert við förum."
Ég spyr: „En hvernig get ég komizt til ykkar?"
Það segir: „Gakktu fjöruna á enda og stattu þar kyrr með lokuð augu, og öldurnar munu bera þig í burtu."
Ég segi: „Móðir mín vill að ég sé alltaf heima á kvöldin — hvernig get ég farið frá henni?"
Þá brosir það og dansar í burtu.
En ég kann enn betri leik.
Ég er aldan og þú ókunn strönd.
Ég veltist lengra og lengra og fell hlæjandi upp að brjósti þínu.
Og enginn lifandi maður mun vita hvar við erum stödd.

# Champa-blómið

HUGSUM okkur til gamans að ég væri champa-blóm og yxi á grein hátt uppi í trénu þarna og hristist af hlátri í vindinum og dansaði á nýútsprungnu laufi, mundir þú þá þekkja mig, móðir?

Þú mundir kalla: „Hvar ertu, barnið mitt?“ og ég mundi hlæja í laumi og ekki láta á mér bæra.

Hljóðlega mundi ég opna blöð mín og horfa á þig vinna.

Eftir morgunbaðið gengur þú með vott hár um herðar í skugga champa-trésins í litla lundinum. Og er þú lest þar bænir þínar, þá mundir þú finna ilm

blómsins, en ekki vita, að hann kæmi frá mér.

Ef þú sætir við gluggann eftir hádegið og læsir Ramayana og skuggi trésins félli um hár þitt og skaut, þá skyldi ég varpa ofurlitlum skugga niður á bókina, einmitt þau orð sem þú værir að lesa. En mundir þú vita, að þetta væri örsmár skuggi litla barnsins þíns?

Um kvöldið, þegar þú færir í fjósið með logandi lampa í hendi, mundi ég allt í einu falla aftur til jarðar og verða á ný barnið þitt og biðja þig að segja mér sögu.

„Hvar hefur þú verið, óþekktaranginn minn?"

„Það segi ég þér ekki, móðir." Þetta mundum við þá segja, þú og ég.

# Álfheimar

EF FÓLKIÐ fengi að vita, hvar höll kóngsins míns er, mundi hún hverfa eins og reykur.

Veggirnir eru úr hvítu silfri, hallarþakið skínandi gull.

Drottningin býr í höll með sjö aldingörðum og ber gimstein, sem kostar öll auðæfi sjö konungsríkja.

En lofaðu mér, móðir, að hvísla því að þér hvar kóngshöllin mín er.

Hún er úti í horni á húsþakinu okkar, þar sem kerið með túlsiblóminu stendur.

Prinsessan liggur sofandi á fjarlægri

strönd handan við höfin sjö, sem enginn kemst yfir.

Það er enginn í þessum heimi, sem getur fundið hana, nema ég.

Hún ber sylgjur um arma og perludjásn á eyrum; hár hennar nær niður á jörð.

Hún mun vakna ef ég snerti hana með töfrasprota mínum, og gimsteinar munu hrökkva af vörum hennar þegar hún brosir.

En lofaðu mér að hvísla því að þér, móðir, að hún er uppi á húsþakinu okkar, þarna í horninu þar sem kerið með túlsiblóminu stendur.

Þegar tími er kominn fyrir þig til að fara niður að fljótinu til að baða þig, gakktu þá upp á húsþakið.

Ég sit í horninu þar sem skuggar veggjanna mætast. Ég leyfi aðeins kisu að koma með mér, því að hún veit hvar rakarinn í ævintýrinu býr.

En lofaðu mér að hvísla því að þér, móðir, hvar rakarinn í ævintýrinu býr.

Hann býr hérna í horninu, þar sem kerið með túlsiblóminu stendur.

# Land útlagans

MÓÐIR, dagsbirtan hefur fölnað; ég veit ekki hvað klukkan er.

Það er ekkert gaman að leik mínum, þess vegna kem ég til þín. Það er laugardagur, helgidagurinn okkar.

Leggðu frá þér verk þitt, móðir, seztu hérna við gluggann og segðu mér, hvar eyðimörkin Tepantar í ævintýrinu er.

Skuggar regnsins hafa legið yfir öllum deginum.

Villtar eldingar rífa himininn með klóm sínum.

Meðan skýin þjóta og þrumur kveða

við, er svo gott að vera hræddur og hjúfra sig að þér.

Þegar regnið dynur á blöðum bambustrjánna tímum saman og vindurinn gnauðar á glugga, þá er svo notalegt að sitja einn í herberginu, móðir, með þér og heyra þig segja frá eyðimörkinni Tepantar í ævintýrinu.

Hvar er hún, móðir, við strönd hvaða hafs, við rætur hvaða fjalls, í ríki hvaða konungs.

Þar eru engin limgerði milli akra, enginn götuslóði, sem þorpsbúar geta þrætt á leið sinni heim í þorpið á kvöldin, eða vegur fyrir konu, sem safnar þurrum sprekum í skóginum og ber byrðar sínar til torgsins. Í eyðimörkinni Tepantar eru geirar af gulu grasi í sandinum og aðeins eitt tré þar sem tveir gamlir og spakir fuglar eiga sér hreiður.

Ég get hugsað mér að einmitt á svona degi ríði hinn ungi konungssonur yfir eyðisandinn einn á gráum hesti í leit að kóngsdótturinni, sem er lokuð inni í höll risans handan við óþekkt höf.

Þegar regnmóðan færist nær af fjar-

lægum himni og eldingu slær niður eins og bitrum sársauka, hugsar hann um vesalings móður sína, sem svikin af konunginum sópar fjósið, og hann þerrar augu sín, þar sem hann ríður yfir eyðimörkina Tepantar í ævintýrinu!

Sjáðu, móðir, það er næstum orðið dimmt, þótt dagur sé enn á lofti. Og það eru engir menn á ferð á veginum til þorpsins.

Hjarðsveinninn hefur farið snemma heim úr haganum og karlmennirnir hafa yfirgefið akra sína og sitja undir upsum kofa sinna á strámottum og horfa á ógnandi skýin.

Móðir, ég hef skilið allar námsbækur mínar eftir á hillunni — biddu mig ekki að lesa þær í dag.

Þegar ég verð stór eins og faðir minn, mun ég læra allt sem læra þarf.

En nú í dag skaltu segja mér, móðir, hvar eyðimörkin Tepantar í ævintýrunum er.

# Regn

ÞUNGBÚIN ský hrannast á myrkum himni yfir skóginum.

Ó, barnið mitt, farðu ekki út!

Pálmatrén sem standa í röð meðfram vatninu ljósta reiðan himininn með höfðum sínum; krákurnar sitja hljóðar með vota vængi á greinum Tamarindtrésins og vaxandi myrkrið ásækir eystri bakka fljótsins eins og vofa.

Kýrin okkar baular, bundin við gerðið.

Ó, barnið mitt, bíddu hérna meðan ég fer með hana á básinn.

Karlmennirnir hafa farið í hópum út

á engið hulið vatni til að ná fiskum sem berast þangað úr tjörnum sem flætt hafa yfir bakka sína. Regnvatnið fellur í lækjum eftir þröngum götuslóðum eins og kátur drenghnokki sem hlaupið hefur frá móður sinni til að stríða henni.

Hlustið, einhver hrópar á ferjumanninn við fljótið.

Ó, barnið mitt, dagurinn er dimmur og enginn ferjar yfir fljótið.

Það er eins og friðlaus himinninn þeysi á villtri rigningunni. Vatnið í fljótinu er hávært og ofsafengið; konurnar hafa farið snemma heim frá Ganges með leirker sín full af vatni.

Það verður að kveikja á lömpum kvöldsins.

Ó, barn mitt, farðu ekki út!

Vegurinn til torgsins er ótryggur, gatan til fljótsins hál. Vindur þýtur og brýzt um í greinum bambustrjánna eins og villidýr sem hefur flækzt í neti.

# Bréfabátar

DAG eftir dag læt ég bréfabáta mína fljóta niður þungan strauminn.

Með stórum svörtum stöfum skrifa ég á þá nafn mitt og nafnið á þorpinu sem ég bý í.

Ég vona að einhver maður í einhverju framandi landi finni þá og viti hver ég er.

Ég hleð litlu skipin mín með shiuliblómum úr garðinum okkar, og vona að þessar morgunfrúr muni ná heilar í höfn í nótt.

Ég ýti bréfabátum mínum úr vör og gái til veðurs og sé lítil ský vinda upp hvít, þanin segl.

Ég þekki ekki leikbróður minn á himnum, sem sendir þau niður til að keppa við skip mín!

Þegar nóttin kemur, fel ég andlitið í höndum mér og læt mig dreyma að skip mín fljúgi lengra og lengra undir stjörnum miðnættisins.

Það eru álfar svefnsins sem sigla á þeim, og þau eru hlaðin blómum.

# Sæfarinn

SKIP sæfarans Madhu liggur við festarklett í höfninni í Rajgunj.

Til einskis er það hlaðið líni og lengi hefur það legið þarna í tilgangsleysi.

Ef hann vildi aðeins lána mér skipið sitt, skyldi ég setja á það hundrað menn undir árar og vinda upp segl, fimm eða sex eða sjö.

Aldrei mundi ég stýra skipi mínu til heimskulegra kaupmangara.

Ég skyldi sigla um höfin sjö og hin þrettán fljót ævintýralandsins.

En móðir, þú mátt ekki sitja og gráta yfir mér í stofuhorninu.

Ég er ekki eins og Ramachandra, sem hvarf inn í frumskóginn og kom ekki aftur fyrr en eftir fjórtán ár.

Ég verð konungssonurinn í ævintýrinu og hleð skip mitt með því sem hugurinn kýs.

Ég tek vin minn Ashu með mér. Við siglum glaðir um hin sjö höf og hin þrettán fljót ævintýralandsins.

# Handan fljótsins

ÉG ÞRÁI að sjá bakkann handan fljótsins.

Þar sem bátarnir eru bundnir með kaðli við bambusstengur.

Þar sem karlmennirnir fara yfir fljótið á bátum sínum á morgnana með plóg um herðar til akra sinna.

Þar sem kúrekarnir láta baulandi kýrnar synda yfir í beitilandið við fljótsbakkann.

Og þaðan koma þau öll um kvöldið og láta sjakalana eina spangóla í einveru illgresiseyjunnar.

Móðir, ef þú ert því ekki mótfallin,

þá langar mig til að verða ferjumaður, þegar ég verð stór.

Menn segja að undarleg vötn dyljist að baki bakkans handan fljótsins.

Að þangað komi hópar villianda, þegar regninu slotar og stórvaxinn reyr vaxi við bakkann þar sem vatnafuglarnir eiga sér hreiður.

Að gaukar með iðandi stél skilji þar eftir örsmá spor í mjúkum og hreinum leirnum.

Að hávaxið grasið þakið hvítum blómum bjóði geislum mánans að dansa á bylgjum sínum.

Móðir, ef þú ert því ekki mótfallin, þá langar mig til að verða ferjumaður, þegar ég verð stór.

Ég skyldi fara fram og aftur yfir fljótið og allir sveinar og meyjar í þorpinu mundu líta mig aðdáunaraugum, þegar þau baða sig.

Þegar sólin er komin upp á miðjan himin og stendur í hádegisstað, mun ég koma hlaupandi til þín og segja: „Móðir, ég er svangur!“

Þegar dagur er liðinn og skuggarnir

þéttast undir trjánum kem ég heim í rökkrinu.

Ég vil aldrei fara burt frá þér til að vinna inni í borginni eins og faðir minn.

Móðir, ef þú ert því ekki mótfallin, þá ætla ég að verða ferjumaður, þegar ég er orðinn stór.

# Blómaskólinn

ÞEGAR stormskýin þjóta um himininn og júníregnið fellur, kemur rakur austanvindurinn yfir heiðina til að blása í sekkpípur sínar í bambus-skóginum.

Þúsundir blóma skjóta allt í einu upp kollinum, enginn veit hvaðan þau koma, og dansa á grasinu í villtri gleði.

Móðir, ég er viss um að blómin ganga í skóla niðri í jörðinni.

Þau læra lexíurnar sínar bak við luktar dyr, og ef þau ætla að fara út og leika sér áður en kennslustund lýkur lætur kennarinn þau í skammarkrókinn.

Þegar regnið kemur fá þau loks frí. Greinarnar slást saman í skóginum og það fer þytur um laufið í villtum vindinum, þrumuskýin klappa saman tröllahöndum og blómabörnin þjóta út í rauðum, gulum og hvítum klæðum.

Veizt þú, móðir, að þau eiga heima á himnum, þar sem stjörnurnar eru?

Hefurðu ekki séð hvað þau þrá ákaft að komast þangað? Veiztu ekki hvers vegna þau flýta sér svona mikið?

Ég veit auðvitað vel hvert þau teygja upp arma. Þau eiga sér móður eins og ég.

## Kaupmaðurinn

HUGSAÐU þér, móðir, að þú ættir að vera heima og ég að ferðast til framandi landa.

Hugsaðu þér að fullhlaðinn bátur minn liggi ferðbúinn í höfn.

Hugsaðu þig vel um, móðir, áður en þú segir hvað ég eigi að færa þér, þegar ég kem aftur.

Móðir, á ég að færa þér gull og meira gull?

Þar á bökkum hinna gullnu strauma eru akrarnir fullir af gullnum gróðri.

Og í skugga skógarstígsins falla gullin champablóm til jarðar.

Ég skal safna þeim öllum saman handa þér í hundrað ker.

Móðir, á ég að færa þér perlu eins stóra og dropa haustregnsins?

Ég skal sigla að ströndum perlueyjarinnar.

Í árdegisroðanum glitra þar perlur á engjablómum, þær falla í grasið og hafaldan dreifir þeim um sandinn.

Bróðir minn skal fá tvo vængjaða hesta, svo hann geti flogið uppi í skýjunum.

Föður mínum skal ég gefa töfrapenna, sem getur skrifað sjálfur, án þess að hann viti.

Handa þér, móðir, verð ég að koma með skrín full af djásnum og gimsteinum sem sjö kóngar verða að láta öll ríki sín fyrir.

# Samúð

EF ÉG væri aðeins lítil brúða og ekki litla barnið þitt, móðir mín góð, mundirðu þá neita mér um að borða af diski þínum?

Mundirðu reka mig burtu og segja: „Farðu burtu, litla leiða brúða?“

Farðu þá, móðir, farðu! Ég skal aldrei koma til þín framar, þó að þú kallir á mig, og aldrei framar láta þig gefa mér að borða.

Ef ég væri aðeins lítill grænn páfagaukur og ekki litla barnið þitt, móðir góð, mundir þú þá láta fjötra mig til þess að ég flygi ekki burtu?

Mundir þú benda á mig og segja: „Þú ert vondur og vanþakklátur fugl, sem heggur í fjötra þína dag og nótt?"

Farðu, móðir, farðu! Ég skal hlaupa inn í skóginn; aldrei framar vil ég að þú hallir mér að brjósti þínu.

# Köllun

Á HVERJUM morgni, þegar klukkan slær tíu og ég geng niður tröðina okkar á leið í skólann, mæti ég götusalanum sem kallar: „Hringir, kristalhringir!“

Ekkert rekur hann áfram, engan veg verður hann að ganga, enginn kallar hann heim aftur.

Ég vildi að ég væri götusali sem gæti gengið allan daginn á götunni og hrópað: „Hringir, kristalhringir!“

Þegar ég kem heim úr skólanum klukkan fjögur, sé ég gegnum hliðið garðyrkjumanninn grafa í jörðina.

Hann gerir það sem hann vill með reku sinni. Hann atar föt sín mold, enginn skiptir sér af honum þótt hann bakist í sólskininu og blotni í regninu.

Ég vildi að ég væri garðyrkjumaður og gæti grafið í jörðina án þess að nokkur kæmi til að segja mér að hætta.

Einmitt í ljósaskiptunum á kvöldin, þegar móðir mín sendir mig í háttinn, get ég séð til ferða vökumannsins gegnum opinn gluggann minn.

Gatan er dimm og auð og götulampinn er eins og risi með eitt rautt auga í höfðinu. Vökumaðurinn sveiflar lukt sinni og gengur með skugga sinn sér við hlið og þarf aldrei að fara í háttinn.

Ég vildi að ég væri vökumaður og gæti gengið um göturnar alla nóttina og elt skuggana með luktinni minni.

# Stóri bróðir

MÓÐIR, litla barnið þitt er heimskt! Systir er svo ótrúlega barnaleg!

Hún þekkir ekki sundur götuljósin og stjörnurnar.

Þegar við leikum okkur að smásteinum, heldur hún að þeir séu matur og reynir að láta þá upp í sig.

Þegar ég opna bók til að kenna henni stafrófið, rífur hún blöðin í tætlur og skríkir af kæti yfir ekki neinu; svona fer nú litla stúlkan þín að því að læra lexíur.

Þegar ég reiðist og hristi höfuðið yfir henni og skamma hana og segi að hún

sé óþekk, þá hlær hún og finnst það ákaflega skemmtilegt.

Allir vita að faðir okkar er farinn í ferðalag, en ef ég kalla að gamni mínu „pabbi“, þá lítur hún hrifin í kringum sig og heldur að faðir okkar sé nærstaddur.

Þegar ég er að uppfræða asnana sem þvottakarlinn okkar kemur með til að flytja á þvottinn, og útskýri fyrir henni að ég sé kennari, þá skríkir hún alveg að ástæðulausu og kallar mig stóra bróður.

Litlu stúlkuna þína langar til að ná í tunglið. Hún er svo kátleg; hún kallar Ganesh[1]) Ganush.

Móðir, litla barnið þitt er heimskt. Hún er svo ótrúlega barnaleg!

---

1) Ganesh, algengt mannsnafn á Indlandi, auk þess nafn á guðinum með fílshöfuðið.

# Litli stóri maðurinn

ÉG ER ekki stór, vegna þess að ég er lítið barn. Ég skal verða stór, þegar ég er orðinn eins gamall og faðir minn.

Þá mun kennarinn koma og segja: „Það er áliðið, komdu með spjaldið þitt og bækurnar."

Ég mun segja við hann: „Veiztu ekki að ég er eins stór og faðir minn?" Og ég þarf ekkert að læra framar.

Þá mun kennarinn minn verða undrandi og segja: „Hann getur látið bækurnar eiga sig, ef hann vill, því að hann er fullorðinn."

Þá klæði ég mig sjálfur í fötin og geng út á markaðstorgið, þar sem fólkið þyrpist saman.

Föðurbróðir minn mun þá koma hlaupandi til mín og segja: „Þú villist, drengur minn, lofaðu mér að bera þig."

Ég mun svara: „Sérðu ekki, frændi, að ég er orðinn eins stór og faðir minn? Ég get vel farið einn á markaðstorgið."

Þá mun frændi segja: „Já, hann getur farið hvert sem hann vill, því að hann er fullorðinn."

Þá mun móðir mín koma úr baði sínu í sömu mund og ég er að gefa fóstrunni peninga, því að þá veit ég hvernig ég á að opna skrínið með lyklinum. Móðir mín mun segja: „Hvað ertu að gera, óþekktaranginn þinn?"

Þá mun ég segja við hana: „Móðir, veiztu ekki að ég er orðinn eins stór og faðir minn, og ég verð að gefa fóstru minni silfurpeninga?"

Þá mun móðir mín segja við sjálfa sig: „Hann má gefa hverjum sem hann vill peninga, því að hann er fullorðinn."

Hátíðardagana í október mun faðir

minn koma heim og færa mér úr borginni litla skó og lítil silkiföt, af því hann heldur að ég sé enn lítið barn.

Ég mun segja: „Faðir, gefðu stóra bróður þau, því að ég er orðinn eins stór og þú.“

Þá mun pabbi hugsa sig um og segja: „Hann getur sjálfur keypt sér fötin sín ef hann vill, því að hann er fullorðinn.“

# Klukkan tólf

MÓÐIR, nú vil ég vera laus við lexíurnar mínar. Ég hef setið yfir bókum allan morguninn.

Þú segir að klukkan sé aðeins tólf. Segjum þá að hún sé ekki meira; en getur þú aldrei fallizt á, að það er komið síðdegi, þótt hún sé ekki nema tólf?

Ég get vel ímyndað mér að sólin sé nú yfir jaðri hrísakursins þarna og að gamla sjómannskonan safni nú jurtum á tjarnarbakkanum í kvöldmatinn.

Ég þarf ekki nema loka augunum til að halda að skuggarnir séu farnir að

þéttast undir madartrénu, og vatnið í tjörninni er sem gljáandi bik.

Ef „klukkan tólf“ getur komið um nótt, hvers vegna getur nóttin þá ekki komið þegar klukkan er tólf?

# Rithöfundarlíf

ÞÚ SEGIR, að pabbi skrifi fjölda bóka, en það sem hann skrifar skil ég ekki. Hann var að lesa fyrir þig allt kvöldið, en vissirðu nokkuð um hvað það var?

Hvílíkar sögur getur þú ekki sagt mér, móðir!

Einkennilegt að pabbi getur ekki skrifað eins vel. Sagði móðir hans honum aldrei neinar sögur um tröll og álfa og kóngsdætur? Hefur hann gleymt þeim öllum?

Oft, þegar hann fer of seint í baðið, verður þú að kalla á hann hundrað sinnum.

Þú bíður og heldur matnum hans heitum, en hann heldur áfram að skrifa og gleymir.

Pabbi er alltaf að leika að hann sé að skrifa bækur.

Hvenær sem ég fer til að leika mér í stofunni hans pabba, kemur þú og kallar á mig, — „Þú ert nú meiri óþekktaranginn!“

Ef ég ærslast ofurlítið segir þú: „Sérðu ekki að faðir þinn er að vinna?“

Hvaða gaman er að því að vera alltaf að skrifa og skrifa?

Þegar ég tek blýantinn eða pennann hans pabba og skrifa á bókina hans alveg eins og hann gerir sjálfur, — a, b, c, d, e, f, g, h, i, — hvers vegna verður þú þá svo reið við mig, móðir? Þú segir aldrei orð, þegar pabbi skrifar.

Þó að pabbi eyði heilum ósköpum af pappír, móðir, þá virðist þér vera alveg sama um það.

En ef ég tek, þótt ekki sé nema eitt

blað til að búa til bát úr, segir þú: „En hvað þú ert erfitt barn!“

En hvað segir þú um það að pabbi eyðileggur hvert blaðið á fætur öðru með svörtum teiknum báðum megin?

# Svikull póstur

HVERS vegna situr þú barna á gólfinu svo kyrrlát og hljóð, segðu mér það, móðir góð? Það rignir inn um opinn gluggann, svo þú verður rennblaut, en þú skeytir því engu.

Heyrirðu að klukkan slær fjögur? Bróðir minn fer að koma heim úr skólanum.

Hvað hefur komið fyrir þig?

Hefurðu ekki fengið bréf frá pabba í dag? Ég sá póstinn bera bréf í tösku sinni til næstum allra í borginni.

Aðeins bréfin hans pabba tekur hann til að lesa þau sjálfur. Ég er viss um að þessi póstur er vondur maður.

En láttu þetta ekki hryggja þig, móðir mín góð.

Það er markaðsdagur á morgun í næsta þorpi. Biddu þernuna þína að kaupa penna og blöð.

Ég skal sjálfur skrifa öll bréfin hans pabba; þú skalt ekki finna í þeim neina villu.

Ég skal skrifa alveg frá A til K.

En, mamma, að hverju brosir þú?

Þú heldur að ég geti ekki skrifað eins vel og pabbi?

En ég skal strika blaðið mitt vandlega og skrifa alla stafina stóra.

Þegar ég hef lokið við að skrifa, heldurðu þá, að ég verði eins mikill kjáni og pabbi að láta þau í tösku þessa viðsjála póstmanns? Ég skal strax fara með þau til þín og hjálpa þér að lesa þau, bréf eftir bréf.

Ég veit að pósturinn vill ekki færa þér beztu bréfin.

# Hetjan

MÓÐIR, hugsum okkur að við séum á ferðalagi og förum um ókunn og hættuleg lönd.

Þú ert borin í indverskum burðarstól, og ég brokka við hlið þér á rauðum hesti.

Það er kvöld og sól er að setjast. Eyðilandið Jóradighi liggur bert og grátt fyrir framan okkur. Landið er ótryggt og hrjóstrugt.

Þú hugsar óttaslegin. — Ég veit ekki hvert við erum komin.

Ég segi við þig: „Móðir, vertu ekki hrædd.“

Grasið er sviðið af hitanum og um það bugðast mjór stígur. Þar er engan búpening að sjá á víðum sléttunum; hann er kominn í hús í þorpinu. Það diminir að og móðan leggst um jörð og himin og við vitum ekki hvert við förum.

Allt í einu kallar þú í mig og hvíslar að mér: „Hvaða ljós er þarna við hæðina."

Um leið er rekið upp ógurlegt öskur og einhverjir koma hlaupandi í áttina til okkar.

Þú situr í hnipri inni í burðarstólnum og biður til guðanna.

Burðarkarlarnir fela sig skjálfandi af ótta inni í þyrnirunna. Ég kalla til þín: „Vertu óhrædd, móðir, ég er hér."

Með barefli í höndum og úfið hár færast þeir nær og nær.

Ég kalla: „Varið ykkur, þorparar! Ef þið komið nær er ykkur dauðinn vís."

Þeir reka aftur upp hræðilegt öskur og æða áfram.

Þú heldur fast í hönd mína og segir:

Elsku drengurinn minn, í hamingju bænum komdu ekki nálægt þeim.“

Ég segi: „Móðir, horfðu nú á mig.“

Þá ký ég fákinn sporum og þeysi fram og slæ sverði mínu á skjöldinn.

Bardaginn verður svo grimmur að þér mundi renna kalt vatn milli skinns og hörunds, ef þú gætir séð hann úr burðarstólnum.

Margir þeirra flýja og fjölmargir eru brytjaðir niður.

Ég veit að þú heldur, þar sem þú situr alein, að nú hljóti drengurinn þinn að vera veginn.

En ég kem til þín alblóðugur og segi: „Móðir, nú er bardaganum lokið.“

Þú stígur niður úr burðarstólnum og kyssir mig, þrýstir mér að brjósti þínu og segir við sjálfa þig: „Ég veit ekki hvernig færi, ef ég hefði ekki drenginn minn til að gæta mín.“

Það gerast þúsundir fánýtra atburða dag eftir dag, og hvers vegna skyldi ekki svona saga geta gerzt?

Hún yrði eins og saga í bók.

Bróðir minn mundi segja: „Getur

þetta verið satt? Ég hélt alltaf að hann væri væskill!“

Allt fólkið í þorpinu okkar mundi segja undrandi: „Það var svei mér gott, að drengurinn var með móður sinni.“

# Endalokin

FYRIR mig er kominn tími til að fara, móðir; ég er á förum. Þegar þú einmana í fölri skímu morgunsins réttir fram arma þína eftir barninu í rúminu, mun ég segja: „Litla barnið þitt er ekki þarna!" — Móðir, ég er á förum.

Ég mun verða mildur blær, sem strýkur vanga þína; og ég skal verða að litlum öldum á vatninu, þegar þú baðar þig, og kyssa þig aftur og aftur.

Á nóttunni þegar regnið dynur á laufinu munt þú heyra rödd mína í hvílu þinni, og hlátur minn mun sindra af eldingunni gegnum opinn gluggann inn til þín.

Er þú liggur vakandi og hugsar um litla barnið þitt langt fram á nótt, þá mun söngur minn berast til þín frá stjörnunum: „Sofðu, móðir, sofðu."

Í flöktandi geislum mánans mun ég læðast að rúmi þínu og hvíla á brjóstum þínum, þegar þú sefur.

Ég mun verða að draumi, sökkva gegnum litla rifu á augum þínum niður í djúp svefnsins; og þegar þú vaknar og horfir undrandi í kringum þig, mun ég hverfa eins og blikandi eldfluga út í myrkrið. Þegar börn nágrannanna koma á hinni miklu pújahátíð og leika sér kringum húsið, þá mun ég renna saman við tóna flautunnar og slá í hjarta þínu allan daginn.

Frænka mín, blessunin, mun koma með púja-gjafir og spyrja: „Hvar er litla barnið okkar, systir?" — Móðir, þú munt þá segja við hana í hljóði: „Hann er í sjáaldri augna minna, hann er í líkama mínum og í sál minni."

# Minning

NÓTTIN var dimm, þegar hún fór í burtu, og þeir sváfu.

Nóttin er dimm nú, og ég kalla á hana: „Komdu aftur, vina mín; veröldin sefur; og enginn mundi vita, þótt þú hyrfir til mín um stund, meðan stjörnurnar horfa á stjörnurnar.“

Hún fór í burtu, þegar trén voru að laufgast og vorið var ungt.

Nú standa þau í fullum blóma og ég kalla: „Komdu aftur, vina mín. Börnin safna blómum og fleygja þeim aftur í hugsunarleysi. Og þótt þú komir og lesir eitt lítið blóm, mun enginn sakna þess.“

Þeir sem voru vanir að leika sér, leika sér enn, svo örlátt er lífið.

Ég hlusta á hjal þeirra og kalla: „Komdu aftur, vina mín, því að móðurhjartað er barmafullt af ást, og þótt þú komir til að ræna aðeins litlum kossi mun enginn sjá eftir honum.“

# Fyrstu jasmínurnar

ÞESSAR jasmínur, þessar hvítu jasmínur.

Ennþá man ég hinn fyrsta dag, þegar ég fyllti hendur mínar af þessum jasmínum, þessum hvítu jasmínum.

Ég hef elskað sólina, himininn og þessa grænu jörð.

Ég hef heyrt hinn skæra nið fljótsins gegnum myrkur miðnættisins.

Hnígandi haustsól hefur komið til mín við beygjuna á veginum úti í auðninni, eins og brúður, sem lyftir andlitsblæju sinni til að fagna ástvini.

Samt er mér kær minningin um ilm

hinna fyrstu hvítu jasmína, sem ég hélt í höndum mér, þegar ég var barn.

Margan fagnaðarríkan dag hef ég lifað, og ég hef hlegið með glöðum vinum á dýrðlegum kvöldum.

Kveðið hef ég á gráum rigningarmorgnum margan kátan brag.

Ég hef borið um háls mér sveiga úr bakúla-blómum, fléttaða með höndum ástarinnar.

Samt er hjarta mitt enn fullt af ljúfum ilmi minninganna um hinar fyrstu hvítu jasmínur, sem fylltu hendur mínar, þegar ég var drengur.

# Banyan-tréð

Ó, ÞÚ stríðhærða banyan-tré, sem stendur á bakka tjarnarinnar, hefur þú gleymt litla barninu eins og fuglunum, sem átt hafa hreiður í greinum þínum, en síðan flogið burt?

Manst þú, hvernig hann sat við gluggann og horfði undrandi á margslungnar rætur þínar, sem steyptu sér niður í jörðina?

Konurnar komu til að fylla ker sín í tjörninni, og stórir svartir skuggar þínir hlykkjuðust um vatnið eins og svefn sem berst við að vakna.

Sólskinið dansaði á litlum gárum eins

og örsmáar friðlausar skyttur, sem vefa veggtjöld úr gulli.

Tvær endur syntu við vallgróinn bakkann og spegluðu mynd sína í vatninu, og barnið sat hljótt og hugsaði.

Hann langaði til að vera vindurinn og blása í greinum þínum, vera skuggi þinn og lengjast á vatninu er dagur leið, vera fugl og setjast á efstu grein þína og fljóta eins og endurnar innan um sefið og skuggana.

# Blessun

BLESSAÐU þetta litla hjarta, þessa hvítu sál, sem hefur fengið himininn til að kyssa jörðina.

Hann elskar ljós sólarinnar, hann elskar auglit móður sinnar.

Hann hefur ekki lært að lítilsvirða moldina og sækjast eftir gulli.

Þrýstu honum að hjarta þínu og blessaðu hann.

Hann er kominn inn í þetta land hinna mörgu vegamóta.

Ég veit ekki hvernig hann valdi þig úr hópnum, kom að dyrum þínum, tók í hönd þína til að spyrja þig til vegar.

Hann mun fylgja þér hlæjandi, án nokkurs efa í hjarta.

Varðveittu traust hans, leiddu hann rétta leið og blessaðu hann.

Leggðu hönd á höfuð hans og bið þess, þótt öldurnar rísi hátt hið neðra, að andblær komi að ofan og fylli segl hans og flytji hann inn í höfn friðarins.

Gleymdu honum ekki í önn dagsins, láttu hann koma til hjarta þíns og blessaðu hann.

# Gjöfin

MIG langar til að gefa þér eitthvað, barnið mitt, því að við berumst með straumi tímans.

Leiðir okkar munu skilja og ást okkar gleymast.

En ég er ekki sá glópur að vona að geta keypt hjarta þitt með gjöfum.

Ungur ertu að árum, en leið þín löng, og þá ást, sem við færum þér, drekkur þú í einum teyg og snýrð frá okkur og heldur leiðar þinnar.

Þú átt þína leiki og leikbræður. Hvað gerir það þótt þú hafir ekki tíma til að hugsa um okkur?

Við höfum sannarlega nógan tíma í elli okkar til að hugsa um liðna daga og geyma það í hjarta okkar, sem hendur okkar hafa misst að eilífu.

Og áin rennur burtu straumhörð og syngjandi, laus úr öllum böndum. En fjallið stendur eftir með minningar sínar og fylgir henni með ást sinni.

# Ljóð mitt

ÞETTA ljóð mitt mun umvefja þig, barn mitt, eins og ljúfir armar ástarinnar.

Þetta ljóð mitt mun snerta enni þitt eins og náðarkoss.

Þegar þú ert einn mun það sitja við hlið þér og hvísla í eyra þér; þegar þú ert meðal fjöldans mun það verja þig og gera þig frjálsan.

Ljóð mitt mun gefa draumum þínum vængi, það mun bera þig að hliðum leyndardómsins.

Það mun verða örugg stjarna yfir

höfði þínu, þegar næturmyrkrið grúfir yfir vegi þínum.

Ljóð mitt mun búa í sjáaldri augna þinna og beina augliti þínu að sál allra hluta.

Og þegar rödd mín er hljóðnuð í dauðanum, mun ljóð mitt lifa í hjarta þínu.

# Englabarnið

ÞEIR hrópa og berjast, þeir efast og örvænta, og deilur þeirra taka aldrei enda.

Láttu líf þitt verða meðal þeirra eins og lítið ljós, barn mitt, stöðugt og hreint, og gleddu þá þar til þeir þagna.

Þeir eru grimmir vegna ágirndar sinnar og öfundar, orð þeirra eins og falinn hnífur, sem þyrstir í blóð.

Far þú og gakktu til móts við hin reiðu hjörtu þeirra, barn mitt, og láttu mild augu þín hvíla á þeim, eins og fyrirgefning og friður kvöldsins falli yfir eftir stríð dagsins.

Láttu þá sjá andlit þitt, barnið mitt, og þannig skilja tilgang allra hluta; láttu þá elska þig og elska þannig hver annan.

Komdu og tak þér sæti í brjósti óendanleikans, barnið mitt. Lyftu sál þinni við sólris og lát hana opnast eins og nýútsprungið blóm. Og beygðu höfuð þitt við sólarlag og endaðu bæn dagsins í þögn.

# Síðustu kaupin

„HVER vill ráða mig til sín?" hrópaði ég, er ég reikaði um morguninn eftir steinlögðum veginum.

Með sverð í hendi kom konungurinn í stríðsvagni sínum.

Hann tók hönd mína og sagði: „Ég vil vista þig og gjalda þér völd mín að launum."

En völd hans voru einskis virði, og hann ók burtu í stríðsvagni sínum.

Í brennheitri hádegissólinni voru öll hús lokuð.

Ég reikaði um bugðóttan veg. Gamall maður kom út með gullpoka sinn.

Hann var íbygginn á svip og sagði: „Ég vil vista þig fyrir auð minn.“

Hann taldi peninga sína, einn og einn í senn, en ég hélt leiðar minnar.

Kvöld var komið og limgerðið var alsett blómum.

Fögur mær kom út úr húsi sínu og sagði: „Ég vil vista þig fyrir bros mitt.“

En bros hennar fölnaði og breyttist í tár, og hún sneri við og fór ein inn í myrkrið.

Sólin glitraði á sandinum og kenjóttar öldur brotnuðu við ströndina.

Þar sat barn og lék sér að skeljum. Það leit upp og virtist þekkja mig og sagði: „Ég vil ráða þig til mín fyrir ekki neitt.“

Og síðan hafa þessi kaup, sem ég átti við barnið í leik þess, gert mig að frjálsum manni.